Veigeñ aa.

Agag Kong leida liet til sijn, Lijfhræddur mællte hætt, so skal burtdrijfa Daudans-Pijn, diarflega framgieck brætt, Samuel kvad mørg Mañs-Børn sijn, Mæker þiñ deydde hrætt, nu skal þig missa Mooder þijn, med þad hioo hañ i Smætt.

Samuel ferdast sijdañ frij, siælf ur til Ramath strax, eñ Saul gieck Borg Gibea i, giætte sijns Stioornar-Hags, þeir saxust ecke upp fra þvi, allt iñ til Dauda-Dags, Guds Mañ aungrade opt aa nij, Atferle soddañ Slags.

## 16. Psalmur.

Ton, Mitt Hiarta hvar til hryggest þu, etc.

Vid Samuel DRotteñ sagde nu, syrgia hvad leinge ætlar þu, yfer Saul einum

hier ? Hønum i burt eg hratt fraa
mier, so hañ ei leingur Kongdoem-
eñ ber.

Vidsmiørs-Horn fyll: og fliott
hw til, far þu: Eñ eg þig senda vil,
i Bethlehem til Isai, hia Sonum
hañs eg siaalfur þvi, sie hañ Kong
er lyndur mier frij.

Ef eg fer sagde Samuel, Saul
spyr þad, og mig slær i Hel; Eñ
Gud gaf aptur Svar, sæk eirn Ka-
lf og sijdañ far, seig þu vilier Offra
hønum þar.

Þu skallt iñbiooda Isai, til Off-
ursens, eñ giæt ad þvi, og hlijd i øllu
mier, med Oleo smurdu eirn sem
ber, einkum hañ eg tilseige þier.

Hañ foor þegar sem HErrañ
bad, hradt kom sijdañ i Betlehems
Stad: Undradist Landsins Lid,
mættu hønum og mælltu vid, mun-

tu koma til vor med Frid.

Hañ sagdi: Eg kiem ad færa Forn, fared og heidred DRottēn vorn, Helgun ydar auked, til Offurs biooda eirneñ tied, Jsai og Sonum hañs med.

Jñ þegar komu aller beint, at Eliab stardi og hugar leynt, mun DRotteñ meina hañ? aptur Herrañ ansa vañ, ecke hef eg kiøred mier hañ.

Met þu ei Vøxt nie Vænleik hañs, Venia Mañleg er þad til sañs, þeir virda fagurt flest, og dæst ad þvi sem diJrmætt siest: eñ Drotteñ gæter ad Hiartanu best.

Sis komu fram fyrer Samuel, Syner Jsai bwner vel, aller med Æru og Prijs, eñ hañ kvadst nu ordeñ vijs, ongvañ DRotteñ þessara kijs.

Samuel bad hañ segdi a Skil, ef Syner hañs være fleire til, Jsai ansar þa: þañ yngsta eirn eg epter æ, wte geimer Hiørdena sa.

Laattu hañ sækia Samuel kvad, setst eg ei fyrre Bordum ad, kalladur kom hañ þar, fagrañ Lit i Bragdi bar, Blæeygdur og dæfrijdur var.

Þesse er kvad Gud sa same Mañ, Samuel foor og smurde hañ, beint sijnum Brædrum hia, Andi DRottins var ætijd þa, yfer David þadañ i fra.

Fra Drottne illur Ande bræatt, Angrade Saul og Sturlar þræatt, hañs Foolk so seigia vañ, upp vier leitum einhvørn Mañ, sem øll Hlioodfære Leika vel kañ.

Saul lijka þar um̃ siæalfur bad, svarade eirn Madur uppæ þad, i

Betlehem

Bethlehem oss hier nær, Sonur Jesse er Sveirn fraabær, sæmelega Hørpuna slær.

Hañ er Madur ad Vexte værn, Vijs, snar lijka so þar med kiærn, og vel i øllu ad sier, DRottenñ hreirn med hønum er, hier uñ næsta kuñugt er mier.

Saul giørde Bod i samre Stund, so til Jesse aa þessa Lund, med Ordeñ einka fijn, Son þiñ David send til mijn, saa nu geimer Hiørdena þijn.

Jesse lagde eirn Asna aa, Eitt Kid og Fløsku Vijns þar hiaa, Braud sem nu beint skal tied, Konge sialfum senda ried, Son siñ David lijka þar med.

Hañ kom og þiente i Kongsins Gard: Kiær hønum miøg og Skialld-Sveirn vard, Oskade aptur þa,

Saul

Saul: og beiddе miwokt sem maa,
mætte David pioona sier hiaa.
Hvørt Siñ sem illur Ande mi-
og, angrade Saul a nockurn
Veg, Hørpu sloo David hægt,
voudum Ar i burt fieck bægt, Vol-
ed allt a Kongenum lægt.
JEsus vor Hiaalpar-HErra
kiær, Hørpuna fyrer oss aumum
slær, þa haũs Ord hreint er kient,
þad fær dockvum Diosle rent, dijr-
sta Glede Hiartanu sendt.



## 17. Psalmur.

Ton, Fader vor sem a Himnum ert, etc.

Philistearner safna sier, til
Socho i Juda, miklum Her,
Saul og Jonathas mest
Mañval, moote þeim fooru i Eike-
dal, sitt a Hæd hvørre lagdest Lid,
lijted Dalverpe var i Mid.

Fra

Fra þeim Heidnu sem fyrr eg gat, fram gieck Rise er hiet Goliath, Sex Alna haar, og Handbreidd meir: Herklæde bar øll giørd med Eir, hañ Bryniu þwnga hafde so, hun gilld Fim̃ Þusund Siklos vo.

Hañs Spioote lijker Heilagt Skrif, vid hvørn digrastañ Vefiar-Rif, Sex Hundrud Sekel vel ad Vikt, var a þvi framañ Jaarned pickt, Eir-Skiølld bar sier a Herdum hañ: med hønum lijka Eirn Smaasveirn rañ.

Haatt a Jsraels hroopar Lijd, hvar til biugguſt þier wt i Strijd? Philisteare eirn eg er, aller Sauls-Þioonar kalleſt þier, wtvelied nu af øllum Mañ, sem Einvijg vid mig halldа kañ.

Ef sa same mig uñed fær, ydur

vijst þioona skulum vær, eñ viñe eg
hañ þa vered hier, vorer Prælar
sein maklegt er, Jsraels hefe eg
Herlids Makt, Hardungar Ord
i Dag tillagt.

Nu sem ad Saul og Herlid ha-
ñs, heyrde Stooryrde þessa Mañs,
øllum bløskrade þegar þad, þeim
kom Otte og Skielfing ad; Fioru-
tiju Daga Frest þeim fieck, fram
Kvølld og Morgna Riseñ gieck.

Jesse þañ Tijd i Betlehem bioo,
bijsna gamall var ordeñ þo, af ætta
sijnum Sonum þriar, sendt hafdi
i Strijd med Konge þar, fra Sa-
ul David var fareñ heim, Fienad
geimdi a Døgum þeim.

Vid David Jesse sagdi snjallt,
Son miñ, þa Brædur þiña skallt,
tak Mæler Byggs og tiju Braud,
til þeirra ber so liette Naud, tveña

sim Ofra haf þier hiaa, Hofuds-
Mañenum fær þu þa.

Hygg ad um þijna Brædur bert,
Bodum þeirra þu hlijden siert: Da-
vid sig eirn til Arla bioo, añan liet
giæta Hiardar ho; J Eikedal var
þa Jsraels Lid, Ovine sijna ad ber-
iast vid.

Ad Vagn-Borgeñe hañ vijkig
ried, var þa Strijdsfoolked wtdreig-
ed, þvi liet i Geimslu þad hañ bar,
hia þeim sem vaktade Bwdernar,
Brædur sijna vid Fylking fañ,
fliott og þar bædum heilsa vañ.

Sem hañ i Rædu vid þa var,
ad Veniu siñe kom Goliath þar,
Hædung mællte vid Jsrael, up-
pa þad David heyrdi vel, hopadi
undañ hvør til sañs, hrædder vid
Asynd þessa Mañs.

Svo hvør vid añan sagdi af

Hyggt, saiu-þañ Mañ er talar
Stygd? sie nockur sar hañ sigra
kañ, sialfs Kongsins Dottur skal
eignast hañ, Eckiungar sær eg
Frelse med, Fodurleifd hañs mun
verda tied.

Dauid heyrde hvad hermdu þeir,
hañ spyr vel̃ þetta framar meir,
hvad skal sa fær sem feller hañ, fra-
taka soddañ Bryxlekañ, hver þesse
Oumskorne er? Illa talar vid Dr-
ottens Her.

Eliab Brooder hañs elste þa,
Ord Davids reydur hlijddi a, sa; dt
hvad vilder hijngad þu? Hierdeñ
geymslulaus ein er nu, Ji ska þijn-
ns Hiarta, og Hofmoed hier, hun
fyrer laungu er kuñug mier.

Dauid afsakar sig med Hægd;
samt-bioo i Hug ad viña Frægd,
Ord þau talar sem adur fyr, iñ

til þess Kongur þetta spyr, Saul
liet kalla a Sveineñ braatt, sagdi
hañ lioost a þeñañ Haatt.

Otteſt eingeñ þañ Illsku Mañ,
eirn skal eg ganga a Hoolm vid hañ:
Saul ansar þu ert ungur Sveirn,
ecki gietur þu bareſt eirn, hañ er sem
aller heyra og sia, Her-Madur sij-
num Ungdoom fra.

David svarar: eg Piooneñ þiñ,
þa Hiardar giætte eitthvort Siñ,
adkom þar Biørn og lijka Lioon,
Lombunum var þvi bued Tioon, i
Kiaalka bæde og Kampa þreif, wr
Kverkum þeirra eg Saudeñ reif.

Sa Ouñskorne so eirneñ fer, af
þvi hañ lastar Drottens Her, Gud
sa mier bijtte Sigre heim, sem eg
vañ fyrr a Dijrum tveim, þessum
Risa mig frelsar fra, furdar Saul
uppa Rædu þa.

Eir Hialm, Brinin og Sverd
til saũs, Saul gyrte þa um Lijfed
haũs, David gat hvørge geinged
greidt, gyrntist af þessu ecke neitt,
vanur kvadst ecke vid þad hier, var-
þar þvi øllu burt fra sier.

Slietta sma Steina fiũ sier faũ,
i Farveg einum þar Lækur raũ,
i Toſku sijna tijnde þa, took Staf-
Sløngu sem greindt er fra, med þad
Goliath moote foor, mætte hønum
þar Riseñ stoor.

Þegar Goliath Sveineñ sa, so
med Drambseme mælte þa, hvørt
hyggur þu eg Hundur sie, hijngad
kiemur til mijn med Trie? kom þu
eg skal þier giallda greidt, gefa
Fuglum þitt Hollded eitt.

Vid Afgud siñ bølvar hønum
hatt, hier til svarade David bratt,
Sverd og Skiølld ber þu moote mi-

er, mæte eg i Nafni DRottins þier, Herlid hans hefur þu hædt og smaad, Hefnd mun yfer þig falla bræd.

DRotten sa skapti Lijdi og Lønd, lætur þig falla i mijna Hønd, þegar eg Høfud þitt af sker, þa slijta Fuglar ydar Hræ, so allt Foolk sioæe ad Israel, eirn Gud hefur sem freilsar vel.

So skulu vörer merkia Men, Mattugur DRotten hiaalpar en, ei fyrer Vopn nie Veriur Mans, vijst er med øllu Strijded hans, Goliath reyddist og geck af Stad, grijpa vill David upp med þad.

David took eirn ur Tøsku Stein, tafdi han ei vid þessa Grein, slaangradi hradt af Hendi þvert, han kom i Risans Enne bert, flatur til Jardar fiell han þar, fagur Sigur

þa

þa giefeñ var.

Goliaths Sverd strax wt David
droo, af dęckum Risa Høfuded slo,
Philistearar flijdu sen, flootta rax-
ku Israels Meñ, Heidingia deyddu
og hroktu þa, Herfaanged tooku
epter aa.

David bar Risans Høfud heim,
hier epter til Jerusalem, i Tiallð-
Bwd sijna liet Sverded hañs, so
lijka Vopneñ øll til sañs, Sigur gaf
DRotteñ sijnum Lijd, sie honum
Lofa hvørre Tijd.

Adur eñ David wtgieck fyrst,
epter Konguren grenstadist, vid Ab-
ner hvors Sonur Sveinneñ var,
hañ sagdist ecke vita um̃ þad, med
Eide soddañ sañar frij, Saul bad
hañ spyrdist epter þvi.

Aptur kom David um̃ þad Bil,
Abner leidde hañ Kongsens til, Go-

liaths Høfud i Hende bar, hañ spyr þegar hvørs Son hañ var, sagdi hønum þa satt um̃ þad, siñ Fader være i Bethlehems Stad.



## 18. Psalmur.

Ton, Lifande Gud þu lijt har ꝛc. etc.

Jonathas epter Um̃tal þad, Elsku vid David feste, i Bethlehems foor þvi eige Stad, aptur ad løngum Freste, hañ bleif hiaa Saul: og þiente þar, þeckur bæde og forsiaall var, hvørs Mañs Hugliwfeñ beste.

Vid David Jonathas goodur greidt, giørde Saattmaala bliidañ, Elskade hañ sem sitt Hiartad heitt, hønum gaf Kyrtil friidañ, Skickiu, Sverd, Boga og Bellte med, baader þeir høfdu Trwfast Gied, uñtust vel ætiid siidañ.

Saul

Saul Kongur David senda
hañ, med sijn Bod alla Vega, af-
reka giørde allt þad hañ, fyrer utañ
Mood og Trega, Strijds-Foolke
ætte ad stioorna þar, J Starfe
fyrer øllum þeckur var, og fram-
gieck forsiællega.

Heim sem þeir komu Hernad
fra, Hoopur Kveña þeim mætte,
dansande sicalfar søgdu þa, med
Saung og Hørpu-Slætte, Ovina
Þusund Saul Eina sloo, Eñ Tiju
Þusund David þo, Konguren glo-
gt þess gætte.

Hañ safnar miklum Moodi sier,
mælte af Grimdar-Hoote, Pær
eigna Þusund Eina mier, eñ Da-
vid Tiju at moote, honum fer fr-
am uñ Heidur siñ, hvad skorter hañ
nu neima Kongdoomeñ Hefnd trwe
eg lijda hlioote.

Alldrei hijrlega upp frä þvi,
Augunum til hans rende: Rand
ÿter Þusund fieck þo frij, og For-
stoon nu̅ Kongs Eyrende, illur
Ande þa Aŭars Dags, angrade
Saul: Eñ David strax, Hørpu sloo
hægt med Hende.

Saul hiellt ä Spioote og hug-
de hart, hier med David ad nijsta,
eñ hañ veik sier þo undañ snart, i
Ødru Siñe og Fyrsta: ætijd Kong-
ureñ Ottast hañ, Adstod DRott-
eñs og Vijsdoom fañ, Forsiall og
sins til Lista.

Allur Juda og Israel, Elskade
David frooma, Saul talade þa vid
hañ vel, veita skal eg þier Sooma,
vertu hraustur ad heya Strijd,
hellst fyrer allañ DRotteñs Lijd,
og framar ried eñ ad rooma.

Eg vil giøra sem goodum ber, og
gipta

gipta þier Doottur mijna, Merob
af þvi hun elldre er, fyrer alla Trw
feste þijna, under nidre þad Fals
Raad fañ, Philistearner skylldu
hañ, Heidner til Heliar þijna.

David leitst ecke lijklegt þad, lætur sem þessu neite, hvad er mitt Lijf og Kyn hañ kvad, Kongs-Maagur ad eg heite, eñ þa þeim Tijma bratt ad bar, burt giefeñ ødrum Mañe var, So trwe eg Saul þvi breyte.

Michol Sauls Dootter Jngre Ein, Ast hatt vid David greida, Konge hocknadest þesse Grein, þvi lætur slijkt til-reida, þeinkte þad verdur eitt Siñ alls, Eflaust honum til Meyra Falls, hañ muñ Heidner deyda.

Kongur hiet honum heñe þa, hier med baud Pioonum sijnum,

.. skylldu David seigia fraa, Saul
aa Forsiaalleik piinum, Velþockn-
an hefur visst til Sañs, verda skall-
tu þvi Maagur hañs, sviptur af
Sorg og Piinum.

Þeir sögdu honum þañ Veg
bert, þvi ried so David giegna, ad
mægiast vid Kong er mikils verdt,
miñar Faatæktar vegna, Liitelmot-
legur eirn eg er, Orsnaudur Mañ
og Fielaus hier, soddañ nam Saul
ad fregna.

Saul beidde eñ fyrer utañ Tof,
aptur þeir David seige, Kongureñ
hvørke Gialld nie Giøf, gyrneſt aa
Brullaups-deige, Forhwder Hund
rad faae hañ heim, af Philisteum
til Hefndar þeim, Praut mikel
þad er eige.

David þocknadest þetta vel, þess
vegna ei vid dvalde, sloo strax Tvo
Hundrud

Hundrud Heidna i Hel, heim kom og allar talde, fram fyrer Kong þær Forhwder ; feck so Michol til Eignar sier, Gud hønum Giøf þa vallde.

Saul sa: David var dæsamt veitt, DRottens Hiaalpræded blijda, og Michol hønum une heitt, af þvi fieck saaran Kvijda, Reyde sier mesta rætte i Hug, reyndest hin vel ad Spekt og Dug, Rafu-frægur vard þvi vijda.

## 19. Psalmur.

Ton, Dagur i Austre ollu, etc.

SAul þa vid Son sin sagde, og sijna Pioona greitt, David dreped ad Bragde, dvelied ei þar um neitt, en sem sitt eiged Hiarta, elskar Jonathas han, so harda Heiptar-Parta, hønum þvi

byrta vañ.

Miñ Fader hañ gløgt ried greina, gyrneſt þier koma i Hel, Til Morguns maatt þier leyna, ad myñu Raade þig fel, med hønum hratt til Ferda, hijngad eg bweñ er, hvørs eg þa vijs mun verda, Vil eg kuñgiøra þier.

Jonathas Trwr i Trigdum, talar vid Fødur ſiñ, giør ei med Grimd og Stygdum, Glæp vid Þienara þiñ, Dygdagiarn David hefur, drygt engvañ Misverknad, noog þegar Naudſyn krefur, Nytſemd er hønum ad.

J Hættu Lijf ſitt lagde, liooſt þa hañ Goliath ſloo, Sigur gafſt ſeñ ad Bragde, ſaaſtu þar uppa þo, hrattſt ſiaalfur hørdum Moode, hagkvæm var Gledeñ ſw, ſo ad ſaklauſu Bloode, Syndgaſt villt

aptur

aptur nu.

Fortølum føgrum leiddur, Fader hans þegar soor, ei skyllde David deyddur, dyggur Jonathas foor, burt: og þan Bodskap frijdan, var honum a þessa Lund, so kom han aptur sijdan, hia Saul var nockra Stund.

Ofridur Israel hrellde, wt foor David i Strijd, Philisteara fellde, flijdu þeir um þan Tijd, Saul styggde illur Ande, J Salnum heima þa, David sem var hans Vande, vel giørde Hørpu ad sla.

Saul hiellt a sijnu Spioote, so strax ad David Od, veik fyrer þvi Vondsku Hoote, i Veggnum Falleren stood, undan komst Jllsku Morde, wtgieck fra Konge fliott, framar ei freista þorde, flwde þa

somu

somu Nott.
Saul liet Vardmeñ wtvelia, ad vakta Hws Davids strax, hugde ad slaa til Heliar, hañ so ad Morgne Dags, Michol siñ Mañ vidvarar, uñ Vindaugad liet hañ wt, gaf sig til Flootta-Farar, fullur med Trega og Swt.
Hun liet Lijknesked eina, liggia i Davids Stad, Geitstøku hafde hreina, Høfdenn under þad, kiænlega Klædeñ breidde, Kviñañ at þetta God, Sendemeñ Saul tilreidde, so giørde þaangad Bod.
David hun siwkañ sagde, Sendemeñ sneru heim, Saul skipar skiott ad Bragde, skygnast ad Tilburd þeim, uñ Soott þa siñed eige, J Sængeñe bered hañ þier, Lijfed so laata meige, liooft fyrer Augum mier.

Sauls komu Sendebodar, saau
Lijknesked þa, og Geitar-Skiñed
skoda, skijrdu so Konge fraa, A-
vijtum Michol mætte, hun mælte:
hañ hiet mier þvi, deya eg Eflaust
ætte, utañ sig liete eg frij.

David foor nu aa Flootta, til
Fundar vid Samuel, sagde med
Sorg og Otta; Sauls Verk og
Jllsku-Þel: til Najoth giørdu ad
gaanga, glogt Kongur um̃ þad
spyr, sende ad sækia hañ þaangad,
som var hañs Heipt og fyr.

Sender fraa eg braatt fare, og
fundu Spaameñ þar, Eirn þeirra
Umsioonare, Ædstur Samuel
var, yfer Sauls Pioona alla, An-
de DRotteñs kom þa, J Hoop til
hiña falla, haglega giørdu ad spaa.

Soddañ barst Saul ad Eyrum,
sende þvi adra Meñ, þeim foor sem

hinum fleirum, fliott spæadu aller
señ, þa liet hañ Pridiu fara, þad
gieck til eins og fyr, um sijna Ut-
sendara, allt þetta Kongureñ spyr.
Hañ foor um sijder sialfur, sem
þaug Tijdende fieck, upp i Rama
Lands-Alfur, og so til Najoth gieck,
Ande Guds yfer hañ dreifdest, eins
spæade æ somu Grein, Aform sitt
ecke leifdest, ad viña David Mein.
Saul fyrer Samuel spæade, so
hefur Skrifteñ greint, fiell fram
flatur æ Læde, furdade margañ
beint, Næsta nakeñ æ Jørdu,
Noottena wt ried spæ, Ordsqvid
Meñ af þvi giørdu, Er Saul
Spæmoñum hiæ:

20. Psalmur.

Ton, J Dag Eitt Blessad Barned er, etc.

DAvid Najoth flijde frá, ad
Fund Jonathas reiste, Har-
ma sijna med Hrigd nam
tiá, hañs Mañdygdum treyste,
spurde med hvoriu hier um̃ Siñ,
hef eg nu moodgad Fødur þiñ, ad
hañ mig so offæker? Lijfe mijnu
leitar ad, leinge maa ei veriast þad,
Heipt mig harda ræker.

Jonathas aptur giengde greidt,
giet eg þad sie eige, Fader miñ alld-
rei fremur neitt, þad fyrr mier ecke
seige, David kvad: ockar Vinskap
vijst, veit hañ: eñ þig vill hrella sijst,
so satt sem Saal þijn lifer, Dauda
og mijn a mille hier, miña þo eñ
Footmaal er, þad hanger hvort siñ
yfer.

Jonathas ansar uppa þad, allt
hvad villtu beida, fullgiøra mun eg
fliott i Stad, sem framast Maal
þitt

þitt greida, David mællte a Morg-
un hier, Maanadarkomu Hætijd
er, ad sitia var fyrr miñ Sidur, til
Bords med Konge þvi bid eg þig,
baada tvo Dagana meige eg mig,
fela þvi ei mun Fridur.

Ef þiñ Fader ad mier spyr, apt-
ur so mættu svara, David leitadi
Leifis fyr, liooft ad mætti hañ fa-
ra, til Bethlehem siñar Borgar
þvi, bodeñ er þar Hætijd nij, øllu
hañs ættar Lide, ef hañ þa seiger:
sie þad vel, sefast mun hañs Heipt-
ar Þel, og vera Von a Fride.

Ef hañ reydest, er þess Von, Illt
sie honum i Siñe, Myskun sijndu
þijnum Þioon, þier laat vera i miñe,
Fielagskap vid mig sieckstu giort,
fyrer DRottens Augsijn bert, þet-
ta eñ stødugt stendur, siaer þu mi-
nar Saker vel, sialfur sla þu mig

i Hel, hvad skal mier i hañs Hend-
ur?

Jonathas sagdi: sie mier kiær,
Sañleik þig ad leyna, illt ef Fader
miñ uppa slær, allt skal eg þier gr-
eina, David spyr hvør mun herma
mier, ef hañ þunglega gegner þier?
aptur hiñ ansa nædi, gongum vid
ut aa Akureñ tveir, og so giordu
bæder þeir, señ ad settu Raade.

Jonathas þa Dygda dijr, til
DRottens vitna riede, sie miñ Fad-
er sættur og hijr, so þier verdi ad
Gledi, Gud giøre mier þetta og þad,
ef þu fær ecke riett i Stad, hier
um glogt ad heyra, fiñest eingeñ
Fridar Stod, fa skalltu þau lijka
Bod, og so añad fleira.

AE! sie DRotteñ eins med þier,
og ædur Fodur mijnum, uppa
þetta Eideñ sver, Ordum hagar so
sijnum,

sijnum, ef eg svijk i þessu þig, þa skal eingeñ aumka mig, hvorke Lijfs nie liden, mijnu Hwse Myskun tia, miñstu ockar Saattmaal þa, fær þu Stioorn i Fride.

Jonathas eins og eigeñ Ønd, ekskade David frooma, at Morgun fer oss fliott i Hond, fyrst Maanadar koma, wr Sæte þa mun saknad þijn, soddañ gief eg Raadeñ sijn, hallt þier heima i Leyne, a þridia Deige virkum vel, vert hier komeñ og þig fel, under þeim stoora Steine.

Aurvum þremur ætla eg, wt til Hæfis skioota, Ordeñ mijn a allañ Veg, athuga muntu hlioota, vid Sveineñ miñ ef herme eg hier, hijngad betur Pijlañ er, þa mun Fridur feingeñ: Eñ ef eg seige hlaup tu hratt, hun fram leingra nidur

datt, vægdar-Von er eingeñ.

Su kom Tijd ad sest vid Bord, Saul og Lijdureñ mæte, Kongureñ lagde ei til Ord, ad audt sie Davids Sæte, huxade til hindrunar, hønum eitthvad komed var; Eñ a ødrum Deige, hañ spyr þa sem hellst var Von, hvad velldur ad Jesse son, iñ hier kiemur eige?

Jonathas gaf aptur Ans, Ordlofs mig hañ beid de, J Bethlehem foor þvi beint til Sañs, brædleg Dorf so neydde, Ætt-Meñ hañs nu Offra þar, eirneigeñ boded hønum var, siaalfur þañeñ sagde, Leife þæde þetta af mier, þvi kiemur hañ ecke hier, bystist Saul i Bragde.

Æfa reydur ansar sliott, Jllt var þa i Siñe, þu Ohlijdne Skælkur skiott, til Skamar Moodur þiñe, og lijka þier sem þess er Von,

hañ

þañ wtvalder Jesse Son, Vinskap
vid ad binda, Rijke þitt ei mektast
maa, medañ aa Jørdu lifer saa,
hañ mun þier burt hrinda.
Laattu hañ sækia i samre Stu-
nd, so hier deyddur verde, hiñ spyr
þa med hægre Lund, hvad illt Da-
vid giørde? Saul greip Spioot og
siaalfur þa, Son siñ villde med þvi
slaa, Jonathas greitt nam gaan-
ga, burtu señ fraa Bordum strax,
Brauds ei neytte Añars Dags,
Sorg ried saart hañ staanga.
Arla gieck med Eirn Smaa-
Dreing, aa Akur þañ fyrr eg tiaa-
de, skaut þa prwdur Pijlu af Strei-
ng, og Pillteñ senda naade, epter
heñe: og aptur vañ, añare ad skioo-
ta fram yfer hañ, og þa aptur sag-
de, flijta muntu þurfa þier, þaang-
ad betur Dreñer, skunda skioott

ad Bragde.

Sveirneñ tok aptur Orvarnar, og eige þar vid tafde, af þvi visse ecke þar, hvad uppaa sig þad hafde: Jonathas bad hañ bera heim, Boga siñ med Vopnum þeim, sem nu soddañ skiede, David geingur Filsinum fraa, fiell Prisvar til Jardar þa, og bad med bliwgu Giede.

Baader grietu þegar þeir, þo med trwskap sañañ, harmar David miklu meir, og mintist hvør vid añañ, Jonathas bad hañ fara med Frid, fast høllldum hvad soorum vid, Gud þess Vottur vere, ockar a mille, eirneñ mijns, Afkvæmes og lijka þijns; burt til Borgar snere.

## 21. Psalmur.

Ton, Sjaadu hvad aagiætt er, etc.

DAvid med Siwt og Sorg, so komst til Nobe Borg, Eirn var þa þañ Tijd mestur, þar Ahimelech Prestur, soddañ fraa eg hañ furde, framar uñ þetta spurde.

Hvi ferdu þañeñ eirn, þier filger eingeñ Sveirn? David sagde: mig sende, Saul: med Leyndar-Eyrende, so liet eg Sveina frijda, siñ i hvørium Stad bijda.

Hafer þu Braud hiaa þier, J Hendur faa þau mier, eda hvad añad betur, eñ þar til funded gietur, aptur þau Andsvør lagde, Ahimelech og sagde:

Eingeñ aa allañ Veg, Almeñings Braud hef eg, utañ þau Heiløg heita, hvørra eige maa neyta, nema ei sie aa Sveinum, Saurgun af Kviñum neinum.

David kvad: Daga Priaa, þa

droo eg badañ fraa, var oss til Vijsa bañad, ef virdest þo hier um añad, þad helgast af Kierum hreinum, Hindrun er ei a. Sveinum.

Hier fyrer honum gaf, Helgada Braude af, eingeñ þvi er ur hafde, og so braad Naudsyn krafde, þo bijda þesse aattu, þar til nij bakast maattu.

Fyrer DRottne þa þar, þañ Dag iñluktur var, Doeg eirn Edomite, allt þetta fraa eg ad lijte, Hyrder Sauls halldeñ u.es.e, Hreckia-Madur eñ veste.

David dyggur sem fyr, DRottens Kieñemañ spyr, hefur þu ei hier heima, Her-Vopn nie Spioot ad geyma? Sier Kongur so ad fylgde, Sverd mitt eg eptersky!lde.

Goliaths Sverd eitt hier er, Abimelech so tier, hvorn þu i Hel-

slooſt Fordum, hlijder David þeirn Ordum, og bad þad til ſijn bære / hetra þvi eckert være.

David þar flude fra, fordaſt Saul villde þa, til Gath vard vi- ſt ad fara, i Bellde Philiſteara; Konguriñ Achis eina, Umſioon þa hafdi hreina.

Pa Sgdu Pioonar hañs: þetta er Kongur Lands, um hañ ſo ſau- ug hvør Kviña, Saul ried Puſund ad viña, eñ David alls þær Stund- er, eirn ſloo tiju Puſunder.

Hañ vard miøg hræddur þa, Hegdun ſiñe þvi bra, David lieſt detta og ſkeika, a Dyraſtafena reika, i Skegg ſier hoſtande hrækte, hijngad og þangad krækte.

Achis þa tiña vañ, Aer og galiñ er hañ, nu fæ eg nær mier lijka, nooga Skiptinga ſlijka, leided hañ vit

ht so eige, Odur hier verda meige.



## 22. Psalmur.

Ton, JEsus Guds Son Eingieten, etc.

DAvid foor strax og slijde, J Fiilsuld Adollam en, brratt komu þar bwner vid Strijde, Brædur hans og Ætt-Men, aller Vandrædum vafder, med Vallde Skullda krafder, søfnudust þaung-ad sen.

Til Mispa med þan Skara, J Moabita Lønd, David ried sliott ad fara, fordast vill Heiptar-grønd, fieck sijnuin Fødur og Moodur, Forsioon Urræda goodur, under Kongs Hlijfdar Hønd.

Propheten Gad framgeingur, gaf David þetta Svar, vert hiar þeim Lijd ei leingur; J Landed Juda far, han foor sem hin umtalde,

J Hareth Skooge dvalde, Saul frietle soddañ þar.

Siælfur uñ sagdar Stunder, Saul bioo i Gibea, Lunde all-føgruun under, eitt Siñ var staddur þa, hañ med Heiptugu Bragde, hiellt æ Spioote og sagde, vid Hyrdmeñ sijna þar hiaa.

Miin David æn alls Efa, ydur þad seiged mier, Eigner og Odul giefa, Yfer-Raad Landsens hier? fyrst so med falskre Lundu, Fast-Mæle vid hañ bundu, so miñ Sonur sem hier:

Aller uñ þvillijkt þeigia, þar gaf sig eingeñ ad, nie satt fræ slijku seigia, Saul Kongur þaðeñ kvad, Soñ miñ: þo sie ei betur, siælfs mijns Præl moot mier hvetur, øllum er auglioost þad.

Doeg svarade og sagde, sæ eg æ

Davids Ferd, til Ahimelechs Leid lagde, liooſt þad eg greina verd; vid DRottenn foor til Frietta, fyrer hann umm allt þetta, Var honum Braud og Sverd.

Kongurenn sende ad kalla Kienne-Mann greindann þa, og ſo Preſtana alla, wr Nobe Borg þar hia, þeir komu a þeſſum Deige, þvi Svikenn viſſu eige, ſijdann ried Saul ad tia.

Þvi hefur þu þannenn framed? þijn Lund er Trygda ſnaud', Samtt-maal vid David ſamed, Sverd fieckſt honum og Braud, fyrer hann DRottenn frietter, til Falls mier þennann upprietter, þvi lijd eg laanga Naud.

Ahimelech ried anſa, aptur og þann-enn tier, hvør er virdtur aan Vanſa, vijſt ſo ſem David hier, hlijdenn, Hugvitur, Dyggur, heidarlegur

Raad-tryggur, Kongs Maagur
eirneñ er.

Mundi eg fara til frietta, fyrst
vid Gud vegna hañs? Þvi skal ei
ætla þetta, Þioon sijnum Kongur
Lands, hvar mig um hellst awijted,
hvørki miked nie lijted, eñ veit eg ei
til Sañs.

Reidur nam Saul ad seigia, so
vid Abimelech, þu skallt og pitt
Foolk deya, þijn Misgiørd noog er
frek, hañ baud þvi hvørge ad fresta,
Helslaaed DRottens Presta, und-
er þad eingeñ viek.

Doeg Ofdyrfskusamur, DRott-
ens Kieñe-meñ sloo, Illverk þad
Bondsku-tamur, vañ og so under
bioo, a'ls aattatiju talda, til Guds
Þioonustu valda, eñ sim ad auke þo.

A'la Borg Nobe eydde, er so t
Ritning tied, Foolked þar Doeg
deidde

deydde, drap lijka nidur Fied, Kvińur Børn Briooſt-mylkinga, bæde Meñ og Peninga, Uxa og Aſna med.

Eirn komſt undañ at Flootta, Abimelechs Son var, Ab-Jathar med Otta, Atvik þau David bar, ſiaalfur hañ ſo ſvaradi, ſañlega mig þad grunadi, Doeg þa þeckte eg þar.

J þeirra allra Bloode, eflauſt eg ſekur er: far nu i mijnu Floode, forſorga vil eg þier, hrædſt ecke Ananud ſlijka, illu og goodu lijka, þu ſkallt mæta med mier.



## 23. Pſalmur.

Ton, Ef Gud er oſs ei ſiaalfur hiaa, etc.

David friette Philiſtear, frekt at Kegila ſtrijda, Kornhlodur ræntu þeirra þar, þeim

var bwed vid Kvijda, hañ spyr Drotteñ hvert hætta mat, Heidingium moot e ad fara þa, Borgena ad frelsa frijda?

DRotteñ svarar og sagde, jaa: Sigureñ skalltu viña, Davids Meñ mælltu moote þa, marger so giordu tiña, ef hier i Juda varla er vært, vera mun þetta sijdur fært, hætta sier so til hiña.

Eñ spyr David i Añad Siñ, Ef ad hañ fara mætte? gaf hønum Andsvar Gud DRotteñ, giorla med þessum Hætte; rijs upp og far, þvi heideñ Her, J Hendur vil eg giefa þier, Foolked siu Fregneñ kiætte.

Hañ foor med sijnu Foolke þa, vid Philisteara ad beriast, og kom til Borgar Kegila, kuñu þeir ecke ad veriast, rak Meñ af Flootta, eñ rænte

ræntе Fied, af Raadum DRottens var þetta skied, So hætte hañ ad heria.

Ab. Jathar þegar undañ rañ, sem adur er greint i Fræde, Liif-Kyrtil hafde þaangad þañ, þad var Eitt Presta-Klæde, med hañ til Davids i Kegila kom, Kleñemañskap og Helgedoom, framde og forstood bæde.

Saul spyr: David sat Dygda-Mañ, dvelia i Kegila byrde, af Gude sier i Hendur hañ, hugde nu selldur yrde, þvi hañ være i sterkum Stad, staddur sem hvorumeigeñ ad, Port og Slagbrandar byrgde.

Saul heimte samañ Herlid sitt, hañ strax til Kegila villde, David fær þañ ad frietta Kvitt, Faar hönum bued skillde, Liif Kyrteleñ þvi liet sier fær, lagdist a Bæn og mæl-

ti þa, heyr mig nu Herrañ millde.
Hefur nylega heyrt þiñ Pioon, hure mier Saul eñ verra, og vilie koma ad veita Tioon, vond Heipt ei næe ad þverra: Munu Borgar Meñ mig til sañs, og mitt Foolk selia i Hendur hañs? Jæ, sagdi hædstur HErra.
David for þa a Flootta señ, fieck eige Dvøl þar laanga; hart nær sex hundrud hafdi Meñ, hlijngad og þangad ganga: Saul friette þad hañ flueñ var, ferdast hvørge fyrst so til var, yfergaf Strijded straanga.
David Eydemørk eirne æ, ørugt Vijge nam byggia, Skoogie og Fiøllum faldest æ, frekt giørde Saul þess hyggia, Lijfe hañs ætijd leitar ad, liet hønum Gud ei takast þad, sa kañ ad hugga og hryggia.

Jon=

Jonathas Davids foor a Fund, fast hiellt a Vinskap hreinum, hugþreyste hañ med hyrre Lund, hoogvær i øllum Greinum, Fodur mijns hrædst ei heiptar Pel, Herra Tign yfer Jsrael, DRottiñ ætlar þier einum.

Pa komeñ ertu i Kongs Tign hædst, (kvad hañ) med Foolke rijku, sialfur vil eg þier vera næst, veit Fader miñ af slijku, sijdañ i Skoogie skildu þeir, Skilmaala sijñ stadfestu meir, Jonathas vijst heim vijkur.

Naagraña Davids nefner Skrif, nioosna og allt uñ skoda, i Eydemørk er hañ sialfur Siph, Saul þetta giørdu ad boda, a Skoogie og Halse Hachila, hønum Kongureñ mætte naa, þar viliun vier til stoda.

Saul beidde þeim nu Blessun-
ar, þier bered Harm miña vegna,
fared nioosned og hygged hvar, hañ
er so meige eg þad fregna, ransaked
øll hañs Filsne og Fie, friett hef eg
þad hañ slægur sie, þa skal eg þessu
giegna.

So giørdu þeir sem Saul þa bad,
sitt hugdu Lid ad veita, David fær
strax ad frietta þad, færde sig þvi
um̃ Reita, aa Maons Vollum hie-
llt sig hañ, heyra Kongureñ þetta
vañ, med Her-Lid hañs nam leita.

Saul fram̃ med eirne Fialls-
hlijd gieck, foor David hinumeig-
eñ, Otta mikeñ og Felmtur fieck,
flijtte sier þvi a Veigeñ, um̃krijng-
di hañ þegar Kongsins Lid, kom so
nærre ad siaalft laa vid, yrde med
øllu sleigeñ.

Sende Madur kom sønnu Tid,

Saul bad sier heim ad hrada, Philistear med feikna Strijd, Foolk og Land giøra ad skada, skyndilega bad skiptist señ, skilnadar Stein pvi kalla Meñ, Ornefned eitt þess Stadar.



## 24. Psalmur.

Ton, Skapareñ Stiarna HErra, etc.

HA heim kom Saul fraa þeim Hernade, hønum var kynt ad David sie, J Eydemorku Engeddi, aptur vill þaangad ferdast þvi.

Hañ vallde strax Priu Pusund Mañs, pad voru unger Meñ til Sañs, Fiall-Veg hañ foor sem var ei vært, valla Skoog-Dijrum einum fært.

Flaar-Byrgium nærre fyrst uñ Siñ, fañ eirn Heller; og gieck

þar iñ, honum þad eitt ad Hende
bar, hylla vill sijna Fœtur þar.

David med sijnu Foolke frij/
falde sig þessum Heller i, Saul þar
iñgaunga saau beint, søgdu þvi all-
er vid hañ leynt.

Saa Dagur nu ad soñu er, sagt
hefur DRotteñ eg vil þier, Ovin
þiñ giefa uñen vijst, allt mattu
giøra sem þier lijtst.

David reis þa aa Fœtur fliott,
foor þo aa Laun sem kuñe hliott,
Skickiu Sauls i þeim Skugga af/
skored gat eitt med Knijfe Laf.

Þa gramdest David sialfum
sier, sagde: Gud laate fiærre mier,
ad legge eg Hønd aa Herra miñ,
hañ DRotteñs Smurde er um
Siñ.

Med soddañ ord um sefar þa, so þe-
ir eiriedu Kongeñ aa, hañ gieck wt-
wr

vr þeim Heller greidt, hier um̃ grunade ecke neitt.

Sem hañ komeñ at Veigeñ var, veik David vt og kallar þar, miñ Herra Kongur, so sagde hañ: Saul leit aptur og giegna vañ.

David fiell Jordu allur at, eirneñ tilbad: og mælte þa, þvi hlijder þu þeim Heimsku-Kvitt, huxe eg ad sitia um̃ Lijfed þitt?

Siælfur mattu nu siaa þad hier, sellde þig Gud i Hendur mier, eggiudu lijka adrer mig, J Hellernum ad deyda þig.

Villde eg þier eingeñ auka Grand, nie at Guds Smurda leggia Hend; skodadu hier þitt Skickiu-Laf, skar eg þad i þeim Heller af.

Maa þad vera til Merkis Eitt, misgiørt hef eg ei vid þig neitt, DRotteñ mille ockar dæme hier,

daasamur hefne mijn aa þier.
Illska kiennur af Omilldum,
Ordtak gamallt þar hlioodar um,
eñ alldrei skal Hønd mijn Heiptar-
lig, med Hefndum falla yfer þig.
Hvad ellter Kongur Israels þo?
Eirn daudañ Hund og litla Floo?
DRotteñ aastaae soddañ hier, Sok
mijna dæme riett af þier.
Saul ansar aptur: Efalaust, er
þad David miñ Son þijn Raust,
grraatande rædde Raunar miøg,
Riettlaatare ert þu eñ eg.
Giørt hefur þu mier Gott fyrer
Illt, gleyma þvi alldrei være skillt,
þa HErrañ gaf mig þier i Hønd,
þu vanst ei mijnu Lijfe Grønd.
Hvør mun siñ Ovin høndla
fyrst, og hønum sleppa med Glede
og Lyst? Gud laune þier fyrer þeñ-
añ Dag: Pad þu veitter mier ecke
Slag.

Slag.

Kongs-Rijkis Stioorn yfer Jsrael, ætlud er þier þad veit eg vel, þvi sver mier Eid ad ecke skallt, afmaa mitt Nafn og Sæded allt.

David Eid þeñañ sialfur soor, J sitt Vijge burt þadañ foor, Saul mere eirneñ aptur heim, adskiled þad Siñ var med þeim.

## 25. Psalmur.

Ton, Allt mitt Raad til Guds eg set, etc.

Neñ þad Vil Samuel andast vañ, Jsraels Lijdur syrgde hañ, Lands-Meñ tilfoorū fwser, þeñañ Guds Mañ ad greptra þa, greiner Ritningeñ looft þar fraa, J sijnu eigeñ Hwse.

Eñ foor David seim uñ eg giet, i Eydemork þa er Paran hiet, frekt þvi Saul fordast maatte, Madur

saa

sat Nabal nefndur var, naalægt
hiaa Carmel bygde þar, Audæfe
mikil aatte.

Sauda-Hiord aatte Þusund
Þreñ, þo Tiju Hundrud Geitur
eñ, Bws-Føng og Forraad stædsta
af Calebs Ættum eirn til Sañs,
Abigael hiet Kona hũs, frijd froont
og forstaal næsta.

Hardraadur miøg i Bildbrod var,
vondsku lindur þa wtaf bar, þad skil-
ede þetta Siñe, Fie sitt hia Carmel
klippa ser, kom sa Noomur til Da-
vids hier, wt a Eydemørkeñe.

David taldi sier tiju Meñ, til
Nabals sagdi hañ farid señ, aa Car-
mels vijda Vøllu, seiged þa fyrst
hañ fiñed hier, Fridur og Lucka sie
med þier, og þvi sem þu aatt øllu.

Ois hefur vered hiingad tied,
Hiard-Sveinar þiner klippe Fied,
hia

hia ydur i Carmel heima, þeir hafa
vered oß næsta nær, nockurt Me-
in alldrei giordum vær, øllu sem
aattu ad geima.

Þeir munu seigia satt um̃ þad,
sialfa maattu þar spyria ad, laat-
tu Pienara þijna, Naad hiaa þier
siña, og nioota þeß, nu er eirn Dag-
ur Sælgiæteß, vyrdst oß Velgi-
ord ad sijna.

Gief þu til þarfa þessa Tijd,
þijnum Syne (so bad David) hvad
þier hellst er fyrer Hende, Sende-
Meñ fooru fliott sem kañ, fundu
Nabal og kvøddu hañ, baaru fram̃
øll Eyrinde.

Nabal af Piooste þañeñ tier,
þesse hvor Sonur Jesse er, Okiend-
ur mier og mijnum? marger giør-
ast þeir Prælar nu, þioona lijted
med Dygd og Trw, hlaupa fraa
Herrum̃

Herrum sijnum.
Skal eg bera mitt Brauđ og Wijn, sem bioo eg handa Foolke mijn, wt til Okiendra Maña? Davids Pioonar med þetta Svar, þa geingu i burt og feingu ei par, søgdu hønum hid saña.
Braadlega David bad sitt Lid, binde hvør Madur Sverd a Hlid, so giorde hañ siaalfur lijka; Fiogur Hundruđ þar hafđe Mañs, hin Tvø voru hiaa þeirra Fans, Ferd byria fwser slijka.
Einn Nabals Pioon um þetta Bil, þa hafđe sagt Abigail, skijrlega allt hvad skiede, David sende med Sveinum hañs, sijna Kvediu til Hwsboondans, burt þeim snøgt snepsa riede.
Parfer voru oß og þecker med, hañ Tijma sem vær geimdum Fied, Flock

Flock vorn alldrei forsimaadu, þeir
reynduſt oss med allañ Hag, eins
og Mwr-Veggur Noott og Dag,
Hiardar vors Herra gaadu.
Þu maatt upphuxa hentugt
Raad, hier mun til Sañs Oluckañ
braad, hweñ Hwsboonda vorum,
Stoor-Siñe hañs þvi hrædunſt
vier, honum eckert, ſem Vonlegt
er, uñ ſoddañ ſeigia þorum.
Hun braa vid ſtrax og bioo ſig
þar, Braud Tvø Hundrud, og eins
margar, Fijkiur og Fiñ Miols
Mæla, Eitt Hundrad Sticke hrein
Rusin, hafde og Floſkur tvær med
Vijn, Saude fim ſodna heila:
Aſna klifiade eirn med þad, un-
dañ ſier Piooneñ ſlitia bad, ſiaalf
trwe eg ſijdañ fære, Nabal viſſe ei
neitt þar af, næſta lijted ſig þar uñ
gaf, i Voda þo ſtaddur være.

Framm under einn Fialle þa, Ferd Davids' moote sier koma saa, hañ var med Huga tvistum, hootast hafdi og hardt vid lagt, hefnast skyllde med allre Makt, aa Nabals Flocke fyrstum.

Abigael af Asna stie, og fyrer David fiell aa Knie, sagde hañ Veg uñ sijder, mijn skal reiknast sin Misgiørd hier, mier leif ad tala fyrer þier, Herra eg bid þu hlijder.

Set ei þiñ Hug med Heiptar Hoot, þeim Heimsku fulla Nabal moot, hañ ber Efned med Heite, ydar Pioona eg' ecke saa, af þvi var mier uñ Skickun þa, Ovijst ad øllu Leite.

Vid DRottenn eg sver og Davids Ønd, daasamlega Gud þijna Hønd, hefur nu hept fra Bloode, Oviner þijner aller hier, eins verde

so sem

so sem Nabal er, og hvor þig hatar
af Moode.

Hier er su Blessan Herra miñ,
sem hijngad færde eg nu um Siñ,
gief þetta Pioonum þijnum, A-
virding þesse ein sie kritt, uppbygg-
er DRottens Hwsed þitt, allt epter
Ordum sijnum.

Ond þijn mun geimd þo offsookt
sie, i lifande Mañа Bindine, hia
Drottne hrædd fyrer ongvu; Ovi-
na Sæler sekar þraatt, siælfar
snwast a allañ haatt, sem Steirn
fleigeñ ur Slongu.

Þa upphefst þu til ædra Valldz,
ecke maa reiknast þier til Falls, ad
hafer þijn hefnt aan Saka, veiter
þier DRottens Velgiord ha, vona
eg ad þu muner þa, mig so til Myñ-
is taka.

David svaradi og sagdi þa, sie nu

lofadur DRottinn sa, hvør þig mier hijngad sende, blessud þijn Ræda og siælf þu siert, sem mig hepter ad vanst ei bert, Hefnd þung af minne Hende.

Vid Israels Herra hædstann sver, hefder þu ecke komed hier, ei munde innann Nætur, i þijns Manns Hwse hafa neirn, hallded Lijfe saa nockur eirn, sem Vatn sitt i Veggenn lætur.

Hann took vid þvi sem hafde hun fært, hvørt skyllde so vid annad kiært, heim foor til Hwsa sinna, Nabal ad værure Veitslu var, vijndrucken sat og kaatur þar, umm þitt huxade minna.

Nefndi hun ecki nu vid hann, neitt fyrr enn Vijned af honum rann, þa fra eg þetta seige, dodnadi hanns Hiarta strax i Stad, stirdnar sem Grioͭt, og epter þad, doo at Tijunda Deige.

Deige.

Þa David spurde Dauda hañs, DRotteñ lofadi vijst til siñs, hvør siaalfur at Nabal hefnde, Plenara sendi þangad til, þeir tala vid Abigail, Bonord uppbar og efndi.

Hun took þvi vel og bioo sig brátt, hveñ kvadst vera at allañ Hátt, fyrer Pioonum hañs þar viña, siñ heñar Þernur filgdu med, foor til Davids sem nu er tied, og vard hañs eigeñ Kviña.

Adra hañs Kviñu eins eg tel, Ahinoam af Jesreel: Saul Michol siaalfur gipte, fyrre þa David fastna liet, fieck heñar nu sa Phalti hiet, þa urdu þaug Uñskipte.

## 26. Psalmur.

Ton, Lifande Gud þu lijt þar a, etc.

Heir Meñ af Siph sem sagt er
frꜳ, Saul i Gibea fundu,
David ꜳ Hædum Hachila,
hellst kvꜳdu leynast mundu; Kong-
ur þegar Priꜳr Þusunder, þa ung-
ra Maña took med sier, foor þꜳng-
ad strax ad Stundu.

Herbwdum sloo ꜳ Hachila
Hꜳls, hiꜳ Eydemerkur Veige,
David fieck þad ad frietta friꜳls,
J Fiærlægd staddur eige, Nioosnar
Meñ sende ad siꜳ uñ þar, Saul
fornam vijst ad komeñ var, Dvol
veit ei duga meige.

David kom ad og kuñe siꜳ, hvar
Kongsens Land-Tiølld stoodu,
Saul under beru Lopte lꜳ, litla
Vagnborg þar hloodu, Abner ha-
ñs hædste Hofuds-Mañ, og Hereñ
svaf allur krijngum hañ, J Vedre
Edlis goodu.

David spyr: hvør vill hætta sier,
ad hitta þeñañ Strijds-Skara?
Abisai kvad: Eg med þier, ecke mig
þar til spara, sa var eirn Sonur
Zeruja, Systur Dvids sem grei-
na mæ, Þeir bæder þaungad
fara.

Saul og allt Foolked svaf til
Sañs, sia eckert þvi nie heyra, þar
stood Spiooted hiæ Hofde hañs,
hvijslar Davids i Eyra, Abisai: Eg
all-vel kañ, eitt siñ i giegn ad leggia
hañ, þa mun ei þurfa meira.

Drep þu hañ ecke David kvad,
DRottens Smurda hvør villde
Helslæ, og eirneñ epter þad, O-
hegndur vera skyllde? Ef Gud
siælfur hañ ecke slær, med eitthvø-
rt Slag, mier þa læte fiær, Hefnd
slijka HErrañ millde.

Spiooted tooku hañs Hofde

fraa, hier med eitt Vatns-Kier lijka, bæder so geingu burtu þa, braa sier ei Foolked rijka: fastur Svefn yfer þa fallen var, af Forsioon DRottens þad so tilbar, Ei vissu Atfør slijka.

Uppaa Hæd David eina gieck, yfrid hatt kalla riede, Abner þa Hroop þad heyra fieck, haalf-vaknadur so tiede, hvør ertu sem so hefur hatt, Herra Kongen Onaadar braatt? hañ skillde ei hvad þar skiede.

Ertu ei Madur? Abner þa, ansar David med Greinum: hvar maa þiñ Lijka siña og faa, J Flock Jsrael einum tilla þier næsta Giætniñ gafst, gieck eirn og villde þegar þu svafst, myrda Kongen med Meinum.

Þad eg vid dijrstañ DRotteñ,

sver.

ſder, Dauda-Søk meiged vera;
Guds Smurda ecke geimdud hier;
nie giættud ydar Herra, verda hañ
Merke ſijnd til Sañs, ſiaæd hier
Spioot og Vatns-Kier hañs, hvad
mætte henda verra?

Þa vaknar Saul vid þeñañ
Room, þañeñ talar ad Bragde,
David miñ Son, þiñ heyre eg Hlio-
om, hiñ jætar þvi og ſagde: hvad
hef eg misgiert þo vid þig? Þu ſo
leinge offſæker mig, Lijf mitt i
Hættu lagde.

Ef Gud hvetur þig moote mier,
Mat-Offur lættu breña, Bölvad-
er ſieu hiner hier, hvørium ſem þad
er ad kieña, af Maña Sonum ad
eg verd, wtrekeñ ſo frá DRott-
eñs Erfd, Eg fæ æ Flootta ad
reña!

Og þeir ſeigia med Atvik hørd,

Afgude skule eg ækalla. DRott-
eñ laate ecke wt a Jord, Ostraffad
Blood mitt falla! Israels Kong-
ur ellter Floo, eins og Veide-Meñ
Riwpu po, sem undañ flijr til
Fialla.

Svarade Saul: og sagde bert,
Son miñ David kom hijngad, eg
hefe moot þier miøg misgiert, hier-
ir skal eg þig ei þvijnga, dijrt virdt-
er þu i Dag mitt Lijf, daarleg
mijn Breitne var Osvijf, sem añ-
ara Ovitringa.

David svarade og sagde a mo-
ot, sended eirn af Smaa-Svein-
um, ad sæke Kongsens Kier og
Spioot, koma Gløllð hvorium
Einum, epter Sakleyse sijnu og
Trw, so bid eg DRotteñ frelse nu,
mig frai Motgange og Meinum.

Þitt Lijf hiaa mier i Dag var
dijrt,

dijrt, þo DRotteñ þig mier sende,
so bid eg Saal mijn verde virdt,
vegleg under Guds Hende, Saul
kvadde hañ med Kiærleiks-Hoot,
kom hönum ecke leingur aa moot,
sijna Leid sierhvør vende.

## 27. Psalmur.

Tou, Eirn Gud Skapare allra sa, ect.

ANN David þeynkte þa med
sier, þad maa tilbera eg falle
hier, i Hendur Sauls þvi
helldeg Raad, hiedañ ad vijkia aa
añad Land.

Til Philisteara flyum bratt,
fyrnast mun Saul a þeñañ Hatt,
um Juda Land ad leita mijn, Lijf
mitt so fordist heliar Pijn.

Hañ fludi þegar sliott til sañs,
foor med hönum sex hundrud Ma-
ñs, hañs eigeñ Kvñur eirnieñ tvær,

mdur hier nefndar voru þær.

Þeir komu i Borg sem kallast Gath, Kongur Achis ad Rijkium sat, þetta nam frietta Saul til sanns, so hætte þa ad leita hanns.

David vid Achis inner þa, ef eg hef funded Naad þier hiaa, eg bid þu gefer wtaf mier, einhvorn Bw-stad i Lande hier.

Hentugt ma ecke þykia þad, i þij-num Konglega bwe eg Stad, Achis slijkt honum epter liet, eina gaf Borg þa Ziklag hiet.

Af þvi er Stadur ordinn sa, Eign Juda Konga þadann i fra, fioora Maanude og eitt Ar þo, i þessu Landi David bioo.

David herjadi aa Plooder þær / sem þar i kringum binggu nær / Gesur og eirninn Amalech, undra miked þvi Herfang fieck.

Kvik-

Kvikfie ræнti og Klædunn þo,
Kviñur og Meñ til Heliar sloo, lif-
andi øngvañ liet þvi Mañ, leina
villdi uñ Hernad hañ.
Achis spurdi uñ Herfør hañs;
hañ kvad, eg foor til Juda Lands,
oa Kenita hef eg heriad þraatt, og
hina sem bwa i sudur Att.
Kongur trwdi og þeinkti þa, þio-
nar mier David hiedañ i fra, all-
drei mun hañ þvi verda vel, vin-
sæll leingur hia Israel.

28. Psalmur.

Ton, Oss lææt þiñ Anda stirkia, etc.

Nu Filistearar færa, Flock Ma-
ña samañ i Strijd, byggia
med Heipt fraabæra, heria
aa Israels Lijd, vid David þa mæll-
te Achis eñ, Ferd þessa mier skulu
fylgia, þu og so þijner Meñ.

David so gløgt nam greina, gaf
þad Svar riett med Skil, þu skallt
vel þetta reyna, hvad Pioon þiñ
giører til, Achis kvad: Eg hef æ-
sett mier, ad þu siert alla Tijma,
Høfud-Vørdur miñ hier.

Samuel sæ Guds Madur, sem
ædur greiner fræ, andadur var
og Jardadur, J siñe Borg Rama,
Saul hafde eirneñ alla señ, wtrek-
ed af þvi Lande, Galldra og Giør-
nings Meñ.

Her Philisteara hafde, Hoop
siñ til Sunem þa, Saul Foolked
samañ krafde, so kom i Gilboa,
hañ spurde DRottein med Hræd-
slu þar, eñ Gud med øngvu moote,
aptur gaf hønum Svar.

Saul bad i soddañ Vanda, sier
fiña Kviñu þa, fulla med Phitons
Anda, sem fyrer kyñe ad spæ, þeir

sögdu i Endor er sw Ein, Forn-
eskiu marga fremur, Forspaa at
alla Grein.
Kongureñ skipte um̃ Klæde,
Kviñuñar vitla ried, saara bar So-
rg og Mædi, Sveinar tveir gein-
gu med, þeir komu aller þar um̃
Noott, øngvañ af þeim hun þeckti,
þa nam Saul mæla hlioott.
Jeg bid þig konstrug Kviña, Kon-
gur so tala vañ, Verk þad fyrer mig
viña, ad vekia upp daudañ Mañ,
hvørn sem eg siaalfur seige þier,
hun þegar soddañ heyrdi, hønum
þar uppa tier.
Saul hefur oss ei hæga, hefndar
Raun tilskickad, og galldra Meñ
giort wtlæga, gløgt veitstu siaalf-
ur þad, i Snøru mijna þu setur
Saal, so hreppi eg hardañ Dauda,
helld eg mier bwed Taal.

Diűrañ Eid að það lagði, einginn
Giölld skylldi faa, hun spurde hratt
og sagði, hvørn daudañ villtu siaa,
hañ svarar heñe: Samuel, soddañ
Svijvirding vesta, Saul liet sier
þocknast vel.

Nu sem hun lijta naaði, nefnd-
añ Samuel hier, sagði med Sorgar
Naaði, Svik eru dreigeñ ad mier,
Saul Kongur þvi þu siaalfur ert,
hañ spyr ad hvad hun sæe? hønum
svarade bert:

Jeg sie Gude wr Jørdu, jafnott
uppstijga nu, hañ spyr med Giedi
hørdu, hvørniñ er Mindlñ siñ? hun
sagdi: Gamall það er eirn Mañ,
i Silke Kyrtle klæddur, Kongur li-
est þeckta hañ.

Vid Saul ried Samuel greina,
so finst i Ritning tiaad, hvad vill-
tu med það meina, mier liest giøra
Onaad

Onaad, hañ svarar: Eg i Hættu
stend, viist er Gud fra mier vikeñ,
Vitran er eingeñ send.

Pvi liet eg þig uppkalla, þijn
Raad eg heyra vil, hellst mun i
Hug þier falla, hvad eg skal giøra til,
Þvi spir þu mig sagdi Samuel þa,
fyrst Gud er Ovin þiñ ordeñ, og þi-
er burt vikeñ fra.

Svo sem Gud fyrr mier sagdi,
sañast þau Efniñ vond, Rijked fer
flioott ad Bragdi, fra þier i Davids
Hond, hender þig soddañ Hefndeñ
frek, fyrst Guds Verk framder ei-
ge, fordum a Amalech.

Eins mun Jsrael giefast, i Phi-
listeara Valld, þarf ei þar um ad
efast, er soddañ Hefndar-Gialld,
med mier verdur a Morgun þu,
sialfur og þijner Syner, Saul
took ad skielfast nu.

Saul fiell flatur til Jardar, fullur af Sorg og Prar, hræddist Hootanir hardar, hart nær vard Maattlaus þa, Dag og Noott fastad hafdi hañ, til Kongsins Kviñañ ingeingur, Klook og so greina vañ.

Jeg lagdi mitt Lijf i Hættu, liooft epter Beidne þijn, Herra miñ hier ad giættu, og hlijd so Ordum mijn, eg vil framleggia lijted Braud, so þu vidhressest sijdañ, Saul neitar þvi hun baud.

Hier til þa hønum neyddu, hañs Meñ og Kviñañ sialf, ad Sæng eñe Sæted reiddu, so took hun aleñ Kaalf, liet slaatra og baka Braud ed skioott, greitt af þvi neyta giørdu, geingu burt sømu Noott.



## 29. Psalmur.

Ton, Hvad vardar oss um skamvint Skart, etc.

Philistearar fluttu þa, Flock
sijn i Aphech Stad, Jsraels
Lijdur til Ain laa, er so grei-
ndt Platzed þad, Heidingia gaan-
ga Hoopur stoor, Hundrudum
samañ ried, David seinast i Fylk-
king foor, fylgde þar Achis med.

Høfdingiar søgdu heidner señ,
bradt vid Kong Achis þa, hvørt skil-
lu þeir Hebresku Meñ, i Her-Før
med oss gaa? Achis sagde: þad er
David, ædur Saul þiente af Dy-
gd, hefur saa til mijn hijngad flijd,
helldur vel Æru og Trigd.

Yfer-Meñ reider ansa þa, apt-
ur snwe hañ heim, J Strijdenu
munu þeir flija oss fraa, og falla i
Hoop med þeim, vær koñunst vid
ad kvædu um hañ, Kvinurnar
Fordum Tijd, Saul aa Þusund
Sigur vañ, señ sloo Tiju David.

Kongureñ David kallar greidt, kvad, so vid Gud eg sver, alldrei formerke eg aa þier neitt, utañ hvad froomlegt er, miøg vel þocknadest miñe Lund, merkeleg Hegdun þijn, sierhvoria þa Samvista Stund, sijdañ þu komst til mijn.

Eñ i Sañleika ad seigia þier, sijst eg þess dylia mun, Hofdingiar vorer hafa aa þier, helldur Farþycktar-Grun, I Fride aptur far þu heim, Fylgiarar þijner med, so þu siert ecke ad Ama þeim, nie aangrer þeirra Gied.

David spyr eñ: hvad olle þvi, ad ecke mætte hañ þar, framgaanga þeirra Flocke i? fliott greinde Kongur Svar: sem HErrans Eingel helld eg þig, hier um gløgt veit eg nu, Høfdingiar baadu hier um mig, heim aptur færer þu.

Ferdast at Morgun flioott af Stad, þad fyrst er lijsa mar, so giorde David sem hañ bad, señ snere aptur þa. fluttu siñ Her Philistei, flioott upp til Jesreel, Orrusta byriast i þeim By, Eg þar uñ sijdar tel.

≈≈≈≈≈≈≈≈≈≈≈≈≈≈≈≈

## 30. Psalmur.

Ton, HimneskeGud vor Herra, hvørs Doomur riettvijs er, etc.

DAvid hier hvørge tafde, helm kom hiñ Pridia Dag, Amalech Hoopur hafde, heriad uppar Ziklag, rænt spent, Borg brent, burt med Kveñfoolked vendt, Stadeñ allañ so eyddu, øngvañ þo Mañeñ deyddu, þeir voru uñ þetta Skeid, þa farner sijna Leid.

Þa Davids Flockureñ friidur, fieck þeñañ Atburd sied, brend var

Borg burtu Lijdur, Børn og Kvin-
urnar med, vid bræ, þeim þa, þw-
ng Hrygd nam Hiartad slæ, Har-
ma-Naust heyrast lietu, hartnær
sig mooda grietu, sijn Vandræde
sorga flest, Syne og Dætur þo mest.
David i Strijde stooru, stadd-
añ mest Hrygdeñ slær, helst þvi
Herteknar voru, hañs Kviñur bæd
ar Tvær, Briooft brañ, Fær fañ,
Foolked vill gryta hañ, J DRott-
ne nam stødugur standa, strax bad
sier fær til Handa, Lijf-Kyrtel þan-
gad þar, þañ bar Ab-Jathar.
Hañ took Kyrtileñ hreina, Herr-
añ adspurde señ, hvort skyllde hier
til reyna, hitta þessa Raans-Meñ?
Giør þad, Gud kvad, greidt mun
þier takast þad: Eñ David ecke taf-
de, alls Sex Hundrud Meñ hafde,
ferdadest sliott sem kan, Foolked

og sialfur hañ.

David gieck Leid so langa, ad
Læk þeim Besor hiet, þreytta þeg-
ar ad gaanga, þar nockra epter
liet, þeir Meñ, alls eñ, Ormædd-
er voru señ, Tvø Hundrud næsta
talder, af Trega og Hrygdum
kvalder, hañ foor med Hoopeñ hiñ,
hvørge tafde um Siñ.

Hardur brautst Hiarta under,
Harmur um þetta Bil, þeir gein-
gu greidt yfer Grunder, giet eg so
bære til; eirn þa, eñ siaa, ungañ
Mañ Veigenum aa, fram til Da-
vids hañ færdu, med Fijkium og
Vatne nærdu, meir eñ þria Daga
þar, þessi fastandi var.

David kvad seig hid sañа, sier-
deills hvadañ þu ert; Eg er Egypt-
skra Maña, ansar hañ þegar bert,
ill Soott, allskiott, eydt hefur mij-

